# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga. gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON*.

17. ÁRG. WINNIPEG, DESEMBER 1902. NR. 10.

## Tvenn ný jólaljóð

eftir séra Steindór Briem.

*I.*

(Lag: Í dag eitt blessað barnið er.)

1. Kom blessuð til vor, blíða nótt,
þú bjarta, fagra' og skæra!
Þú rennr upp svo hœgt og hljótt
oss hita' og ljós að fœra.
Já, ljós af himni ljómar nú
um land og haf og sveit og bú
og þorp og bœ og borgir.
Nú er í hverju húsi bjart;
nú hörfar burtu myrkrið svart;
nú sefast allar sorgir.

2. Nú eru jól um alla jörð
á alls kyns tungumálum;
nú greinist líka herrans hjörð
frá heiðnum manna sálum.
Þeim trúuðu' er í hjarta heitt,
en hinir finna ekki neitt,
er guð á himnum hata.
Þeir hátíð enga halda' í kvöld,
því hjörtun eru dauð og köld.
,,Mein þeim, í myrkr rata.''

3. En þótt eg ætti allan heim
og auðlegð hans og gengi,

eg finna myndi' af fögnuð þeim
ei fulla huggun lengi.
Því heimr bráðum hverfr mér
og héðan burt eg snauðr fer.
Ó, tómt er trúlaust hjarta,
er af því, sem fyr' augun ber,
neitt annað betra' og fegra' ei sér
en syndamyrkrið svarta.

4. Sjá, litlu börnin kát í kvöld,
hin kæru mannkyns-blómin,
þau hræðast engin glœpagjöld;
þau gleðr jólaljóminn.
Í huga þeirra' og hjarta' er bjart;
já, hjörtu þeirra gleðr margt.
Ó, blessuð, blessuð jólin.
Þið gleðjið börn og góða menn,
ó, góðu jól! þið komið enn,
og jóla signuð sólin.

5. Ó, Jesús, heims og himins sól,
í heiminn komst nú niðr
og gafst um leið hin glöðu jól.
Guðs velþóknan og friðr
í heiminn kom með komu þín.
Í kvöld þú lítr inn til mín
með nýrri náð og mildi.
Ó, jólabarnið, þökk sé þér.
Vér þökkum og þig lofum vér
svo margfalt minna' en skyldi.

6. Þér lof sé, Jesús, jólabarn,
á jörð er hér komst niðr
að safna oss um heimsins hjarn.
Þín hjörðin auðmjúk biðr:
Ó, blíði Jesú, blessa þú
vor börn og gef þeim sterka trú;
gef trú og traust oss öllum
og bljúga' og milda barna-lund
og blíða von um endrfund
hjá þér í himnahöllum.

---

*II.*

(Lag: Nú litlu vakna blómin og litast um á grund.)

1. Nú litlu fagna börnin, því ljósin skær og björt,
þau loga svo, að hvergi ber á skugga.
Þess gætir ei hið minnsta, þótt nú sé nóttin svört
og nátt-tjöldin breidd fyr' alla glugga.

2. Já, nú er undra-fagrt og bjart í hverri borg,
í bœjum, höllum, fátœklegum kofum.
Nú gleði' er hjá oss inni, en ei hin minnsta sorg,
og allir af hjarta guð vér lofum.

3. Nú litlu gleðjast börnin, því lítið barn er fœtt;
því litla barni fagna heimsins þjóðir.
Það ber af öllum öðrum, svo inndælt og sœtt.
Vér eigum það; það er okkar bróðir.

4. Já, gleðjizt, litlu börn mín, og gleði sýnið vott,
og göfgið drottin. Prísi' hann allir lýðir.
Hann gefr ykkr jólin og Jesúm og allt gott,
og jörðina' og himininn um síðir.

5. Það barnið, sem vér fögnum og fœddist nú í nótt,
það náð af himnum flutti til vor niðr.
Þá náðina að ofan gat enginn annar sótt.
Nú er hér guðs velþóknan og friðr.

6. Já, barnið unga fœrði oss frið á þessa jörð;
þann fögnuð hirðum drottins engill boðar.
En barnið, það varð hirðir, og hans vér erum hjörð,
og hjörtun hann rannsakar og skoðar.

7. Ó, geymið ykkar hjörtu svo hrein og góð og blíð
og haldið ykkr æ á drottins vegi.
En ljósið drottins orða, um lífs ykkar tíð
það lýsi' ykkr. — Gangið sem á degi.

---

# Jólin í Betlehem.

(Illustrated Home Journal. — Louis Wagner.)

---

Betlehem, Davíðs borg, þar sem Kristr, frelsarinn, fœddist, hinn lang-merkasti fœðingarstaðr á jörðinni, er lítil-

hnótlegt þorp, sem ekkert það hefir við sig hið ytra, er veki aðdáun manna nú fremr en í fornöld. Allt þar umhverfis er óbreytt frá því, er áðr var. Sömu merkrnar og sama loftið þar uppi yfir eins og forðum, þá er birta drottins ljómaði á þeim stöðvum umhverfis fjárhirðana í nætrkyrrðinni og hinir himnesku herskarar englanna hófu upp lofsöng sinn til guðs hina fyrstu jólanótt. Svo lítil hefir breyting orðið á siðvenjum og ástœðum fólks í landinu helga á liðnum öldum, að óhætt er að segja: Betlehem hlýtr að hafa litið út fyrir tveim þúsundum ára mjög líkt því, sem það þorp lítr út nú.

Hinn litli bœr stendr uppi í klettaás einum, sem er eins og skeifa í laginu. Þetta er í Júdeu-fjalllendi skammt frá Jerúsalem. Stræti bœjarins eru svo mjó, að vögnum verðr að eins með naumindum um þau ekið. Fólkstala í Betlehem er um 5,000. Eiginlega er að eins eitt verulegt stræti þar til — aðalstrætið, en margir smástígir liggja út úr því í allar áttir og mjög óreglulega. Húsin eru úr gráleitum steini, og á þeim eru í stað glugga smuguop, sem lokað er með rimlahlerum. Svo gömul eru þau hús og óheilnæm, að í engu menntuðu landi þykir nú unanda við önnur eins híbýli. Fíkjutré, olíutré og döðlupálmar vaxa á bœjarásnum.

Pílagrímum þeim, er heimsœkja Betlehem, fer fjölganda með ári hverju. Að morgni jóladagsins, meðan allt fólk í voru landi er í fasta svefni, nema þar sem óttusöngvar tíðkast, leggja þúsundir pílagríma á stað frá Jerúsalem, gegn um Jaffa-hliðið, áleiðis til Betlehem. Sumir þeirra eru ríðandi; en sökum þess, hve afskaplega vondr er vegrinn og lélegir vagnar og hestar, kjósa flestir heldr að fara fótgangandi. Þá er til Betlehem er komið, þyrpast pílagrímarnir vanalega saman í Maríukirkjunni, sem stendr á torgi bœjarins og hefir reist verið fœðing Krists til heiðrs. Nokkrir úr hópi pílagrímanna skunda þó oftast í mestu ákefð út úr bœnum til stöðva þeirra, er kenndar eru við fjárhirðana. Þar er þeim bent á blett einn helgan, þar sem engill drottins, niðr stiginn af himni, birtist fjárhirðunum.

Geta má þess, að veðrið í Gyðingalandi er ávallt mjög napr í Desembermánuði, einkum þó að nætrlagi. Klerkr

sá, sem bíðr þar á víðavangi, á hélaðri jörðinni, til þess í býti morgun þennan að taka á móti pílagrímunum, hraðar því tíðagjörð sinni sem mest hann má; og óðar en hann hefir lýst blessaninni, sem endar með lofsöngsorðum englanna, flýta allir sér aftr inn í bœinn til þess að taka þátt í prósessíu biskupanna og prestanna. Allir klerkarnir ganga í skrautbúningi samskonar og sá var, er prestar Ísraels báru á hátíðum. Þegar patríarkinn í Jerúsalem kemr með föruneyti sínu, glæsileg-um, fjölmennum hópi presta, sem halda á stórum kertastikum og dýrindis-fánum, tekr prósessían sig upp. Síðan heldr hún áfram beint til Latínu-kapellunnar og inn um aðal-dyrnar, sem eru svo þröngar, að ekki kemst þar inn nema einn maðr í senn, og svo lágar, að allir verða að beygja sig, jafnvel þeir, sem allra lægstir eru vexti. Svo sem við mátti búast liggja sérstök söguleg rök að því, að dyr þessar eru svona lágar. Kapelludyrnar voru fyrr meir bæði háar og breiðar. En er Tyrkir til þess að særa trúartilfinningar kristinna manna tóku að ríða þar inn á hestbaki, var dyrunum breytt og þær gjörðar svona lágar og þröngar, til þess að helgidómrinn yrði ekki framvegis vanhelgaðr á þennan hátt.

Sagan segir, að hin stóra kirkja, er stendr á torginu, hafi verið reist árið 340 af Konstantín mikla, fyrsta kristna keisara rómverska ríkisins. En líklegra þykir þó, að kirkjan sé ekki eldri en frá árinu 550, enda er til önnur sögusögn, er heldr því fram. Það er eiginlega stór klasi af húsum, með mjög óskipulegu byggingarsniði, sem tengd hafa verið saman, svo að úr því hefir orðið ein heild, og líkist þetta helzt kastalavirki. Í þyrping þessari er Maríukirkjan, hin latínska og hin gríska, og enn fremr hin ermlenzku klaustr. Hið innra er kirkjan mikilfeng og tignarleg — „basilíka" hennar með hinum stórskornu korinzku súlum. Fjórar raðir slíkra súlna mynda fimm „skip" helgidómsins, og á veggjunum má sjá leifar af fögrum litsteinamyndum, er hafa átt að sýna ýmsa atburði í biblíusögunni og kirkjusögunni. En á margan hátt eru þó gangrúm kirkjunnar vanhelguð. All-títt má sjá þar börn á hlaupum til og frá, svo og börn, sem eru að fljúgast á; en hins vegar liggja búandkarlar einatt sofandi við súlurn-

ar og hafa hinar víðu úlpur sínar fyrir ábreiður. Þá hafa Grikkir og sett upp vegg um kirkjuna þvera til þess að afgirða nokkurn part af henni til sinna eigin persónulegu afnota. Í þeim parti kirkjunnar er inngangan í ,,fœðingarkapelluna" svo kölluðu, vinstra megin við aðal-altarið; en uppi yfir því altari er gull-kross einn geysi-mikill með Kristsmynd á, og er þar svo frá litaskiftum gengið eins og myndin væri lifandi. En lampi einn einstakr er fyrir ofan í loftinu, og fellr þaðan dularfull glampandi ljósbirta yfir altarið.

Niðri í jörðinni, undir kirkjugólfinu á þessum stað, er hvelfingarkapellan, þar sem Kristr samkvæmt sögusögninni var fœddr. Í þeirri kapellu eru guðsþjónustur haldnar allan jóladaginn,—frá því kl. 10 á aðfangadagskvöld og allt til miðnætr eftir jóladaginn. Þá endar patríarkinn í Jerúsalem þær í eigin persónu með því að syngja hámessu. Mannfjöldinn er miklu meiri en svo, að allir geti fengið sæti. Þúsundum saman sitja menn og standa á beru gólfinu. Munnmæli segja, að Kristr hafi fœðzt í bergskúta einum, er notaðr hafi verið fyrir fjárhús. Hinn upphaflegi hellir hefir stórum verið víkkaðr, og allar hliðar hans hafa menn skreytt með marmarahellum. Niðr úr lofti hvelfingarinnar hanga 32 skrautbúnir lampar, og varpa þeir ljósbirtu yfir málverkin á veggjunum. Á þessum stað gjöra allir pílagrímar bœn sína á jóladaginn. Þar endar prósessían. Jatan, sem barnið helga hvíldi í, er nú ekki framar sýnd eins og áðr tíðkaðist; lögðu pílagrímar þá í jötuna fjölda vaxbrúðna og mynda, sem þeir vígðu á þann hátt og höfðu svo aftr með sér heim til sín. Staðrinn, þar sem jatan á að hafa verið, er þó merktr með stórri silfrstjörnu og þessari latínuáskrift: *Hic de virgine Maria Jesus Christus natus est* (Hér fœddist Jesús Kristr af Maríu mey). En stjarnan og letrið er mjög máð af hinum óteljandi kossum hinna guðrœknu pílagríma. Öðrum megin við stjörnuna stendr lítið altari, sem á að minna á blettinn, þar sem austrlenzku vitringarnir veittu barninu tilbiðjandi lotning.

En yfir jólahátíðarhaldinu öllu í Betlehem standa tyrkneskir hermenn á verði. Þeir standa þar í fylking, hafa vakanda auga á prósessíunni og varna því, að hinir grísk-kaþólsku

og rómversk-kaþólsku prestar, munkar og pílagrímar komist í ófrið. Þannig safnast þjónar páfans og áhangendr Múhameðs saman á afmæli Krists í Betlehem, fœðingarstað hans, — en því miðr er þar ekkert, sem minnir á sannkristilegt jólahald — á staðnum, þar sem frelsarinn fœddist öllum mönnum.

# Drottinn kallar.

Prédikan eftir séra Björn B. Jónsson.

(Flutt í Fyrstu lút. kirkju í Winnipeg, 21. Sept. 1902, og birt hér eftir áskoran frá ritstjóra „Sam.")

Texti: I. Samúelsbók, 3. kap.

(Meginmál og niðrlag frá síðasta blaði.)

Þegar eg lít í kring um mig og hugsa um ástand mannanna á jörðinni, dylst mér ekki, að ástandið er víða nú engu betra en hjá Gyðingum á dögum Elí. „Orð guðs er sjaldgæft" víða, víða. Fáfrœði, villa og volæði yfirgnæfir í mörgum löndum. Jafnvel hjá oss kristnum mönnum fer margt afvega; kirkjan sjálf er víða í niðrlæging sökum synda meðlima hennar og misbrúkunar á embættum hennar hjá starfsmönnunum að dœmi þeirra Hofní og Píneasar, Elí-sona. „Guðs orð er sjaldgæft" nú eins og þá. Og þó er drottinn ávallt að kalla, alveg eins og hann kallaði á Samúel. En því miðr heyra svo fáir með sömu heyrn og Samúel; svo dauðans fáir svara, þegar drottinn kallar, og segja: „Tala þú, drottinn, því þjónn þinn heyrir." Guði sé þó lof: nokkrir heyra og hlýða; já, tiltölulega fleiri en nokkru sinni áðr fylgja dœmi Samúels, þegar drottinn kallar. Í heilögum krafti hins sjálfsafneitanda kærleika fer heill skari kristinna votta út um heiminn víðsvegar til að prédika réttlætið og hjálpræðið í Jesú Kristi, og lengra inn í villumyrkrið en nokkru sinni áðr voga þessar guðs hetjur sér með ljós sannleikans. Með heilagri gleði má öll kristnin lofsyngja yfir árangri kristniboðsins á yfirstandandi tíð. En þó vantar mikið á, að vér kristnir menn gjörum skyldu vora, þessa œðstu skyldu, að verða við hinni síðustu áskoran vors bless-

aða frelsara, að gjöra allar þjóðir að lærisveinum. Drottinn er að kalla, en allr þorri fólks heyrir ekki, þó hann kalli.

Í annan stað er líka heimrinn farinn að kalla á oss kristna menn að koma og bjarga sér. Fram á nýliðna öld voru kristniboðar útilokaðir frá stórum flákum heimsins. En nú hefir svo að segja allr heimrinn opnað dyr sínar, svo kristindómrinn getr fengið að ganga inn. Eymdin óumræðilega hjá heiðnum og hálfheiðnum þjóðum kallar á oss. 700 milíónir heiðingja kalla; 175 milíónir Múhameðstrúarmanna kalla; átta milíónir Gyðinga kalla. En svo sár-fáir koma, þótt kallað sé. Í sumum löndum er ekki nema einn trúboði fyrir hverjar 400,000 sálir. Í Sýrlandi, Persalandi og Kóreu þyrfti að margfalda trúboðatöluna 50 sinnum; í Indlandi, Tyrklandi og Japan 100 sinnum, og í Kína og Afríku 1,000 sinnum. Kínaveldi kallar á oss með sínar 398 milíónir sálna; Indland kallar með 288 milíónir sálna; Afríka kallar með 206 milíónir sálna; Japan kallar með 40 milíónir sálna; og frá öllum eyjum hafsins er á oss kallað. Svo hefir mönnum talizt til, að á klukkustund hverri deyi 1,200 manns í Kína, 800 í Indlandi, 600 í Afríku, og í öllum heiðnum löndum til samans 3,600. Og af þeim hefir ekki nema í mesta lagi einn af tíu heyrt getið um sáluhjálparvonina í Jesú Kristi. Og vér! vér, sem höfum þá einustu von við aðkomu dauðans, að guð miskunni oss fyrir Jesúm Krist og vér fyrir friðþæging hans hljótum eilíft líf, —vér, sem huggunarlausir værum við dauða vina vorra, ef ekki hefðum vér fyrirheiti Jesú um samfundina í paradís, —vér getum þó vitað bræðr vora deyja svona og syrgja svona huggunarlausa og vonlausa. Það er eitthvað bogið við heyrn kristinna manna, þegar þeir heyra hvorki guð né menn kalla. Sífellt er t. d. verið að kalla á kristna menn og biðja þá að styrkja trúboðana til fararinnar út í myrkrið og þjáningarnar og dauðann, sem fjölda þeirra bíðr í fjarlægu löndunum; en sá styrkr fæst ekki. Til jafnaðar er sagt að meðlimir kirkjunnar í Ameríku gefi árlega þ r j ú c e n t hver til kristniboðs meðal heiðingja. Ekki tíundi hver maðr gefr nokkurt cent. Og hvernig ætti maðr þó að geta gjört sér vini af mammon ranglætisins, svo hann

við burtför sína héðan verði tekinn í hinar eilífu tjaldbúðir, ef ekki á þann hátt, að verða samverkandi með Kristi í frelsan mannssálnanna, með því að styrka trúboðið? Hvaða elska er það til frelsarans, hvaða kærleikr er það til aumstaddra brœðranna, þó hún komi upp á þrjú cent? Munum vér ekki allir verða að blygðast vor á efsta degi fyrir að þurfa að svara dómaranum: ,,Eg hafði þriggja centa, eða fimm centa, eða tíu centa virði af ást til frelsara míns og syndaranna, sem hann dó fyrir.''

Kristniboðið meðal heiðingja kallar á oss, kallar á efni vor til styrktar trúboðunum, kallar á börn vor sem flytjendr fagnaðarerindisins. Guð kallar á oss og biðr oss að gefa það bezta, sem vér eigum til, eins og hann gaf það bezta, sem hann átti til, sinn eingetinn son. Maðr nokkur var að kveðja son sinn, er lagði á stað sem trúboði í fjarlægt land; klökkr var hann í hjarta, tár voru á hvörmunum, en hann sagði glaðr: ,,Eg á ekkert of dýrmætt til að gefa guði''.

En svo áríðandi sem bœnir Önnu og heyrn Samúels eru fyrir heiðingja-trúboðið, þá er hið sama engu síðr ómissanda kristninni sjálfri heima fyrir. Guðs orð er einnig sjaldgæft heima fyrir hjá oss. Guð er að kalla á oss. Hann hefir svo mikið starf með höndum. Hann þarf svo marga menn. Uppskeran á akri guðs ríkis er mikil, en verkamennirnir fáir. Guð hefir gefið kirkjunni heilagan anda sinn til að leiða hana til afar umfangsmikils verks. Hin kristilega og kirkjulega starfsemi verðr æ fullkomnari og yfirgripsmeiri, og um leið fæst starfssvið fyrir fleiri og fleiri menn. Guðs verk á nú að vera í allra höndum. Guð er að kalla á karlmennina og drengina, en ekki þá eina, heldr líka konurnar og stúlkurnar. Lengi var konunni lítið verk ætlað í kirkjunni; en nú er sá misskilningr horfinn. Á konuna er kallað ekki síðr en karlmanninn. Og oft heyrir hún betr en hann, þegar drottinn kallar. Hún fer líka út í heiðnu löndin. Og hver getr lýst því hugrekki, sem konurnar sýna í því starfi. Þær kenna börnum heiðingjanna; þær lækna; þær hjúkra; þær kenna systrum sínum að þekkja frelsarann og lifa í hreinleik og helgan. Og heima fyrir í söfnuðunum hafa þær hlotið sinn skerf af starfinu.

Annað aðal-verk kirkjunnar er konunum að mestu leyti falið einum, en það er líknarstarfið. Það verk fær nú æ meiri viðrkenning og er álitið engu þýðingarminna en hitt aðalætlunarverk kirkjunnar: prédikan orðsins. Margar hinar hreinustu og helgustu konur gefa sig nú algjörlega við þessu starfi, læra til þess, vígjast til þess í Jesú nafni, að vera líknandi sendiboðar drottins til hinna sjúku og sáru, föllnu og týndu. Til margra hluta annarra kallar guð á konurnar og stúlkurnar. Guð kallar á þær til að kenna. Guð kallar á þær til að syngja. Guð kallar á þær til að vera ljós og líknarenglar í söfnuðunum.

Og hve hátt og skýrt skyldi þá ekki drottinn kalla á karlmennina fullorðnu og drengina uppvaxandi að gjörast þjónar hans og erindsrekar. Ó, Samúel! Samúel! heyrir þú ekki, að drottinn er að kalla?

Og svo hugsa eg að síðustu um vorn eigin sérstaka, fámenna kirkjulega félagskap, hugsa um oss sem vestr-íslenzka kirkju. Guð komi til með oss! Ástand vort er ekki glæsilegt. Er fjarstœða að líkja því við ástand Gyðinga á því tímabili, sem frá segir í textanum? Orð guðs er sannarlega sjaldgæft vor á meðal Vestr-Íslendinga, svo sjaldgæft, að ekki nema dálítið brot af þjóðflokki vorum í þessu landi nýtr guðs orðs og sakramenta og hefir kirkjulegt líf sín á meðal. Margt af fólki voru er fallið frá guði og barnatrú sinni á frelsarann. Starfsmennirnir eru fáir; prestaskortrinn svo mikill, að það er alveg grátlegt fyrir alla kristilega sinnaða menn. Og það sem þó er verst af öllu: Hofní og Píneas hafa ekki verið óþekktir vor á meðal. Vestr-íslenzka kristnin vor er eins og Anna; þola verðs hún íyrirlitning fyrir það, hve fáa hún á synina. Svo sem engir af hinum ungu og hér uppöldu Íslendingum hafa gengið henni í sonastað sem prestar. En kirkju vorri hefir líklega verið sjálfri um að kenna Hún hefir ekki leitað jafn-harmþrungin og heittbiðjandi eins og Anna til drottins og grátbeðið guð að gefa sér sonu. Ef til vill er guð einungis að bíða eftir því, að vér biðjum, láta oss finna svona sárt til starfsmanna-skortsins til að kenna söfnuðunum að koma til hans með hjartalagi Önnu og biðja hann ásjár. Eg

held vor einasta hjálp sé nú fólgin í samtaka bœnum til guðs, heitu og hjartanlegu ákalli til drottins út um alla söfnuði vora. Hann hefir sjálfr lagt svo fyrir, að kristnin skuli biðja sig um að senda menn til kornskerunnar. Kristni vor, þessi veika vestr-íslenzka kirkja, þarf öll sameiginlega að falla fram fyrir drottin og grátbiðja hann í þessari stóru neyð, prestaskortinum. Kirkja vor þarf að koma fram fyrir drottin með móðurlegar tilfinningar eins og Anna, og biðja eins og hún og vinna samskonar heit og hún. Þá mun drottinn bœnheyra oss eins og hana, og vekja oss upp unga menn, sem heyra og hlýða eins og Samúel.

En svo megum vér þá sjálfir ekki gleyma því, að sjá hinum ungu mönnum, sem guð gefr oss, fyrir réttu kirkjulegu uppeldi. Samúel ólst upp í „bústað drottins". Og svo framarlega sem vér viljum vænta góðs af ungmennum vorum og tryggja oss og kirkjunni starf þeirra í framtíðinni, verðum vér að ala þau upp í „húsi drottins", kenna þeim þegar í œsku að þjóna guði í kirkjunni, og sjá þeim fyrir menntan, þegar þau þroskast, á skólum vorrar eigin kirkju og í anda vorrar eigin lútersku trúar, svo þau fyrir þessi og þvílík áhrif verði við því búin að svara, þegar drottinn kallar, og segja með Samúel: „Tala þú, drottinn, því þjónn þinn heyrir."

Öll tímanleg og eilíf velferð er í rauninni komin undir því, að maðr heyri hina guðlegu rödd í tilverunni og hlýði henni. Sérstaklega er gæfa manns undir því komin, að maðr heyri og hlýði, þegar guð kallar á mann og býðr manni að helga líf sitt og krafta Kristi og kirkju hans. Og til þess er guð nú að kalla á yðr, kæru tilheyrendr! Guð er að kalla á yðr, ungu menn! Guð kallar á yðr að koma til hjálpar löndum yðar, og koma fljótt! Guð er að biðja yðr að gefa sér hjörtu yðar og höfuð og hendr! Guð er að kalla á yðr og biðja yðr að gjörast þjónar Jesú Krists og prestar kirkjunnar. Engin vegsemd er eins mikil og sú virðing, er guð sýnir oss syndugum með þessu kalli sínu. Ungu menn! hlustið—heyrið — drottinn er að kalla! Rís upp, ungi íslenzki maðr! Drottinn þarf á þér að halda. Drottinn vill finna þig. Drottinn vill senda þig. Hlýð þú honum í Jesú nafni.

Foreldri! biðjið með Önnu, og berið börnin, sem guð gaf yðr, til guðs, og ,,ljáið honum þau alla æfi", eins og hún komst að orði. Ekkert er svo dýrmætt, að það sé of gott til að gefa guði. Guð faðir gaf oss soninn sinn; gefum guði syni vora.

Synir! gangið í samfélag og samvinnu með syni guðs til að frelsa synduga menn og yðr sjálfa frá glötun.

Ó, himneski faðir! Heyr þú fyrirbœnir vorar fyrir kirkjunni vorri vestr-íslenzku:

,,Æ, bœt hennar þungbært mœðu-mein
og margan þinn slíkan lærisvein
sem Jóhannes,—hennar sorg að sefa,—
í sonar stað henni virztu gefa."

Í Jesú nafni. Amen.

## Hvers þarf bandalagið helzt?

**Ritgjörð eftir I. J., lesin á bandalagsþingi að Garðar, N.-D., 27. Júní síðastl.**

Áðr en þessari spurning er svarað finnst mér nauðsynlegt að gjöra sér grein fyrir því, hver er eða ætti að vera aðal-tilgangr þessa litla félagskapar; því fyrsta skilyrðið fyrir því, að nokkurt félag geti lifað og þroskazt, er að það hafi eitthvert ákveðið markmið og allt starf þess stefni að því.

Hver er þá aðal-tilgangr bandalagsins? Fyrst og fremst það, eftir því sem mér skilst, að aðstoða kirkjuna og sunnudagsskólann í því að halda unglingunum við kirkju sína og gjöra þá að lifandi og starfandi meðlimum hennar. Bandalagið ætti því sífellt að hafa það hugfast, að það er ekki sjálfstœtt félag út af fyrir sig, heldr lítil grein af söfnuði sínum. Byrðar safnaðarins ætti bandalagið að gjöra að sínum byrðum og velgengni hans að sínu ánœgjuefni.

Hvað verðr nú gjört til þess að samvinna geti tekizt með kirkjunni og bandalaginu? Báðir málspartar verða að leggja til sinn skerf. Bandalagið verðr svo sem þegar er sagt að taka þátt í starfi og kjörum safnaðarins — með því að styðja að kirkjugöngu, meðal annars og allra helzt með því að gefa þar sjálft gott eftirdœmi; hafa það um hönd á fundum sín-

um, er fremr hœni meðlimina að kirkjunni en fæli þá frá henni; veita söfnuðinum fjárstyrk eftir megni og þörfum hans o. s. frv. En á hinn bóginn verðr söfnuðrinn að viðrkenna og meta tilgang bandalagsins og sýna því dálitla hluttekning í starfi þess. Sízt er uppörvun fyrir unglinga, sem mestmegnis mynda þennan félagskap, að finna til þess, að eldra fólkið í söfnuðinum nálega fyrirlítr hann. Eg hefi í fleirum en einum söfnuði verið á „opnum" bandalagsfundum, sem haldnir hafa verið einu sinni á ári og vandað hefir verið til eftir beztu föngum, og allir þangað boðnir velkomnir, en boðið var að eins af sárfáum þegið utan meðlimanna sjálfra.

Annað markmið bandalagsins ætti að vera það, að gjöra meðlimi sína, ungmennin, er það safnar að sér undir eins eftir ferminguna, að nýtum og góðum meðlimum hins borgaralega mannfélags. Það verðr því að finna til þeirrar miklu ábyrgðar, er í þessu tilliti á því hvílir, gagnvart ungmennunum. Því það á að hafa áhrif á félagskapar-smekk þeirra, enda gjörir það vissulega að meira eða minna leyti. Með því einu móti, að þessi smekkr sé réttr, hreinn og næmr, getr bandalagið varnað unga fólkinu frá hinum óhreina og skaðvæna félagskap, sem því miðr er of mikið til af allt í kring um oss. En þá verðr líka bandalagið sjálft að vera þannig, að sú meðvitund geti vaknað hjá þeim, er í það ganga, að þetta sé fyrirmyndar-félagskapr og verk það, sem það er að vinna, þess vert að eyða kröftum sínum í þarfir þess. Félagið sem heild verðr að hafa áhuga á málefni sínu og bera traust til sjálfs sín, ef það á að lifa og dafna. Unga fólkið verðr einnig að finna til þess, að það er hér að grœða eitthvað sjálft, er að verja tíma sínum að minnsta kosti eins vel og það gæti gjört í nokkrum öðrum félagskap,—að það er auk þess að njóta gleði eða skemmtana, sem öllum, en ekki sízt unglingum, er nauðsyn á,—að það grœðir í þekkingarlegu eða menntalegu tilliti jafnframt því, er það andar þar stöðugt að sér heilnæmu trúarlofti.

Með engu móti er auðveldara að vekja áhuga hjá einstaklingunum fyrir því eða því málefni en með því að gjöra þá sjálfa að starfandi meðlimum. Því finnst mér nauðsynlegt

sérstaklega í svona löguðum félagskap, sem samanstendr að svo miklu leyti af ungmennum, mörgum kjarklitlum og óframfœrnum, og með mjög litlu sjálfstrausti, að hinir eldri veiti einkum þeim vinalega og bróðurlega athygli og sýni, að þeir meta þá sem þarfa og starfandi meðlimi. Enginn meðlimr er að ætlan minni svo, að hann geti ekkert hjálpað félaginu annað en það að greiða gjald sitt, ef hann að eins sjálfr trúir því, að hann geti nokkuð. Og sannfœrð er eg um það, að enginn leysir svo neitt starf af hendi af bezta mætti, að hann ekki grœði á því sjálfr. Þannig getr enginn borið fram á fundi gott kvæði eða góðan lesmálskafla án þess áðr að hafa kynnt sér það sjálfr, sem hann þó að líkindum ekki myndi hafa gjört ella, og hefir hann þá sjálfr ekki grœtt minnst. Sé það ekki þess virði að eyða tíma í að kynna sér það eða undirbúa sig til að bera það fram, þá er það vissulega ekki frambærilegt á fundi. Þótt ekki sé nema að láta í fám orðum skoðan sína í ljósi félagsmálum viðvíkjandi, þá er það eigi lítill gróði fyrir þann, sem það gjörir. Margir helztu rœðuskörungar heimsins hafa kvartað yfir því, að eitthvað það erviðasta, sem þeir hafi tekizt á hendr, hafi verið það, að skýra í fyrsta sinn frá skoðan sinni í heyranda hljóði almennings. En með þessu brutu þeir ísinn. Og svo má enn verða. Hinir eldri verða þess vegna að gá að því, að einurðarlaus og óvanr unglingr, sem skjálfandi stendr upp á fundi í fyrsta sinn til að láta opinberlega skoðan sína í ljósi, getr ekki klætt hngsanir sínar í svo fagran búning sem vanr rœðumaðr, og getr verið mjög auðvelt að gjöra slíkt viðvaningstal hlœgilegt í augum fundarins. En hugsum oss, hver áhrif það muni hafa á unglinginn og fleiri. Það, sem að er hjá unglingi, er kemr fram á bandalagsfundi, ætti að benda honum á án þess að tilfinningar hans væri særðar.—Bandalögunum ríðr umfram allt á því, að hlýtt kærleiksband tengi saman meðlimi þeirra og þeir taki innilegan þátt hver í annars störfum.

Eins og allir vita, sem nokkuð eru bandalögunum kunnugir, eru fundir þeirra þrennskonar:—trúmálafundir, menntamálafundir og skemmtifundir eða starfsmálafundir. Nöfn þessi sjálf benda á starfssvið félagsins. En nöfn þessi eru

mjög víðtœk. Bókmenntaheimrinn t. d. er afar stór, og vér verðum að koma með smáúrvöl þaðan til að bera fram á menntamálafundum vorum. Því minna sem bókmenntabrotið er, sem fram skal borið, því meiri vandi er að velja það svo, að það geti orðið að sem mestum notum. Allr sá fróðleikr, sem á að hafa verulega menntalegt gildi, verðr að vera í samhengi. Sundrlausir fróðleiksmolar eru ekki menntun. Góð kvæði, tekin af handahófi og lesin, geta verið ágæt í sjálfu sér; en ekki finnst mér þau þannig um hönd höfð muni hafa jafn-mikið menntalegt gildi eins og ef að eins einn rithöfundr væri tekinn fyrir í senn, ágrip gefið af æfisögu hans, sýnishorn af því, er eftir hann liggr, borin fram, og svo ef til vill frjálsar umrœður um ritverk hans á eftir. Eg tek þetta að eins sem dæmi. Það, sem eg hér á við, er það, að hver fundr fyrir sig ætti helzt að vera helgaðr sérstöku efni, eða jafnvel, að nokkrir fundir í samfellu tœki slíkt sameiginlegt efni fyrir, í stað þess eins og víða tíðkast að hrafla hinu og öðru alveg sundrleitu saman á þann og þann fundinn. Með því móti gæti fundirnir orðið til verulegrar uppbyggingar. En til þess að þetta geti tekizt þurfa prógrömm fundanna að vera mjög vandlega fyrirhuguð af þar til kjörnum nefndum; og er auðsætt, að þetta er mikið verk og að það er mikill vandi, sem á nefndum þessum hvílir.

Í bandalagi voru í Winnipeg eins og víst mörgum öðrum, sem mér er ekki eins kunnugt um, hefir margt komið fram á fundum, sem mjög er fróðlegt í sjálfu sér. En mikið vantar á, að nokkuð af því hafi orðið oss eins minnisstœtt á eftir eins og þau hin mjög svo frœðandi ágrip af forn-íslenzku ritverkunum, sem þar hafa verið borin fram á fundum. Auðvitað er það, að slíkt verk hefir kostað mikla fyrirhöfn. En það er mér óhætt að segja, að þetta verk hefir borið mikinn árangr í menntunarlegu tilliti fyrir þá, sem þess hafa notið; því þar höfum vér fengið samstœða fróðleiksheild; svo vér ættum nú fyrir bragðið að hafa talsvert ljósa hugmynd um hinar fornískenzku bókmenntir, sem flestu unga fólkinu voru nálega ókunnar áðr.

Eg hefi sagt það, sem eg ætlaði að segja viðvíkjandi

menntamálafundunum. Um skemmtifundina þarf ekkert að segja. Þeir eru ef til vill bezt sóttir af öllum fundum vorum, hvort sem það er nafninu að þakka eða einhverju öðru. En oft hafa menn fundið til þess, að þetta er þvert á móti með trúmálafundina. Í þeim bandalögum, sem eg þekki nokkuð til, eru þeir yfirleitt lakast sóttir. Hver er ástœðan? og hvað er unnt að gjöra til að bœta úr því?

Eg ætla ekki að reyna til að svara því, en vonast til þess af einhverjum öðrum mér fœrari.

*THE ILLUSTRATED HOME JOURNAL* er enn á ferðinni — mánaðarritið, sem Louis Lange Publishing Co. í St Louis, Mo., gefr út. Það er nú sjö ára, og ávallt jafn-vandað bæði að efni og ytra frágangi. Efnið er mjög margbreytilegt, og undantekningarlaust ræðr þar kristilegr trúarandi. Myndirnar margar og prýðilegar — af merkum mönnum samtíðarinnar eða fyrri alda, húsum, bœjum, stöðum o.s.frv. Árgangsverðið er að eins $1.00. Jólablað þessa árs kemr með hér um bil 70 myndir, þar af fjórar, sem taka yfir heilar—stórar—blaðsíður. Úr því blaði er þýdd greinin í þessu nr.i „Sam." um Betlehem.— Sem flestir landar vorir, er skilja ensku, ætti að vera kaupendr og lesendr þessa ágæta tímarits.

GJAFIR Í SKÓLASJÓÐ [úr Breiðuvíkr-söfn. í N.-Ísl.]: Stefán Þórarinsson, $4; Baldvin Jónsson, Mart. Jónsson og Jón Hildibrandsson, $1 hver; Jón Björnss., Sigrsteinn Halldórss., Björn J. Skaftason, Þorgerðr Jónsd. og Mrs. Sigr. Oddleifsson, 25 cent. hvert. — Samtals $8.25.

### TIL SAFNAÐA KIRKJUFÉLAGSINS.

Eg vil leyfa mér að benda söfnuðum kirkjufélagsins á tvær samþykktir, er gjörðar voru á síðasta kirkjuþingi: 1) „Að skýrslur þær, sem söfnuðirnir eiga árlega að senda skrifara kirkjufélagsins, sé bundnar við almanaksárið og sendist skrifara fyrir 1. Janúar ár hvert." 2) „Að skrifara hvers safnaðar í kirkjufélaginu sé gjört að skyldu að tilkynna skrifara kirkjufélagsins nöfn og pósthús embættismanna safnaðarins undir eins eftir hvern safnaðar-ársfund." — Með tilliti til þessa skora eg bróðurlega á skrifarana í öllum söfnuðum kirkjufélagsins, að tilkynna mér TAFARLAUST nöfn embættismannanna. Mun eg þá um hæl senda hverjum söfnuði prentuð skýrsluform, sem embættismennirnir eiga að fylla út og senda mér svo aftr að vörmu spori.

Minneota, Minn., U.S., 12. Des. 1902.

BJÖRN B. JÓNSSON, skrif. kirkjufél.

---

Hr. Ólafr S. Thorgeirsson, 644 William Ave., er féhirðir „Sameiningarinnar".



---

„SAMEININGIN" kemr út mánaðarlega, 12 númer á ári. Sunnudagsskólablaðið „Kennarinn" fylgir með „Sam." í hverjum mánuði. Ritstjóri „Kennarans" er séra N. Steingrímr Þorláksson, West Selkirk, Man. Árgangsverð beggja blaðanna að eins $1; greiðist fyrirfram.—Skrifstofa „Sam.": 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: JÓN BJARNASON, (ritstj.), FRIÐRIK J. BERGMANN, ÓLAFR S. ÞORGEIRSSON, BJÖRN B. JÓNSSON, N. STEINGRÍMR ÞORLÁKSSON.

Prentsmiðja Lögbergs. — Winnipeg.